{Þeirra íslendsku evangelisku smárita Nr. 74 C.}

Frá

# Karli Gützlaff

og

## kristniboðinu á Kínlandi.

Á næstliðnu sumri var sá maður á ferð í Danmörku og Svíþjóð, er telja má með afbragðsmönnum aldar vorrar. Hann heitir Karl Gützlaff og væri réttnefndur „Kínverjapostuli". Honum er manna best lagið að boða trú, og hefir hann varið æfi sinni og orku til þess, að kristna Kínverja. Hann er maður trúrækinn og fræðimaður mikill, ötull í framkvæmdum öllum, en þó jafnan hinn gætnasti. Hann hefir átt mikinn þátt í, að heita má sem búið sé að opna nýjan heim í þeim hluta austurálfu, sem fjærstur er.

Karl Friðrik Agúst Gützlaff er fæddur 8. dag júlímánaðar 1803 í Pýritz, litlum bæ í Pommern á Prússalandi. Faðir hans var saumamaður, ráðvandur og guðrækinn. Hann leitaði syni sínum allrar þeirrar menntunar, sem faung voru á. Þegar Gützlaff var á 4. árinu, andaðist móðir hans, og hlaut hann mjög að finna til þess, hversu sár móðurmissirinn er á þeim aldri. Í æskunni var hann jafnan þúnglyndur og ógladur, því hann átti við bágan hag að búa, sem hepti fjør hans og framkvæmdalaungun. Snemma lét hann á sér heyra, að

sig lángaði til, að verða prestur, en hvarf frá því, þegar hann eltist. Var nú svo ráð fyrir gjört, að hann skyldi nema iðnað nokkurn, því faðir hans var félitill og gat ekki færst meira í fáng. Einhverju sinni fékk Gützlaff að láni hjá kunningja sínum kristniboðs-annálana nafnkendu, sem koma út í Basel, og um sama leyti heyrði hann ræðu nokkra þess efnis, að hvetja menn til að styrkja kristniboðið. Þetta hreif hann mjög, og vaknaði það nú til fulls, er með honum bjó. Hann var þá 15 vetra. Bað hann nú kennara sína og foður, að láta keuna sér til kristni-boðara, en fékk þess eingar vonir, því efnin urðu að ráða. Tveim vetrum síðar bar svo undir, að Prússa-konúngur var staddur í Stettinborg; orti þá Gützlaff kvæði, að ráði eins vina sinna, og færði konúngi. Konúngi líkaði kvæðið vel, tók Gützlaff að sér og lét hann læra til kristniboðara hjá presti nokkrum í Berlin, er Jäniche hét. Meðan Gützlaff var hjá honum, sannfærðist hann algjörlega um, að Guð hefði kallað sig til að boða heiðíngjum réttan átrúnað. Hálfu øðru ári síðar gjörði kristniboðsfélagið hollendska boð til Berlínar eptir nokkrum mønnum, er vel væri fallnir til að takast kristniboð á hendur. Einn þeirra, er sendir voru, var Gützlaff, og sæmdi konúngur hann að skilnaði gjøf nokkurri. Undir árslok 1823 kom hann til Rotterdams. Forstoðumenn félagsins þar sáu skjótt, hvílíkt mannsefni hann var, og hefir einn þeirra sagt um hann, „að hann væri stakur gáfu-maður, hinn ákafasti um útbreiðslu kristinnar trúar, og hefði allt það til að bera, er trúboðendur þyrftu með.“ Hann varð skjótt ástsæll af øllum, því hver

sem við hann kynntist, sann þegar, að hann var hóg-
vær og ástúðlegur í umgeingni, vitur maður og marg-
fróður. Fór svo fram um hríð, að ekki varð afráðið,
hvert Gützlaff skyldi fara. Sjálfur vildi hann helst
fara austur um haf, annaðhvort til Malakkaskaga á
Indlandi hinu eystra (Bagindien) ellegar til Mólúkk-
eya. En meðan á þessu stóð, fór hann til Parísar
og Lundúna, einkum til að nema túngu Malaja, og
og kynna sér trúarboð Einglendínga og sögu þess.
Þegar hann kom aptur úr þeirri ferð, ritaði hann á
hollendsku sögu kristniboðanna frá síðaböt-
inu til vorra tíma. Bókin kom út 1828.

Í septembermánuði 1828 réðist Gützlaff til aust-
urferðar, og urðu 4 aðrir trúboðendur honum sam-
ferða. Á öndverðu ári 1827 komu þeir til Batavíu-
borgar á Javey (Java). Þar hitti Gützlaff enskan
kristniboðara, Medhúrst að nafni, hinn ágætasta mann,
og gladdi það hann mjög. Gützlaff tók þegar að leggja
sig eptir kinversku, og sagði Medhurst honum til. En
þó Gützlaff sé manna fljótnæmastur á mál, þótti hon-
um kinverskan svo torskilin í fyrstu, að hann kvað
sér mundi fara, sem flestum öðrum, er ekki gátu flutt
trúarboðið á þessa túngu, nema æðri máttur styrkti
sig. En svo var honum umhugað um það, að geta
flutt Kínverjum fagnaðarerindið, að hann linnti ekki
fyrr, enn hann var orðinn fullnuma í túngu þeirra
og öllum málýskum hennar, og nú er það alkunnugt,
að hann talar túngu þá, sem er allra mála torskild-
ust, einsog eigið móðurmál sitt.

Í grend við Javey bjó fjöldi kinverskra manna.
Gützlaff sárnaði, að sjá hina miklu hjörð, er eingan

hirdir þekkti, og ásetti sér, ad verda madur þjódar þessarar upp frá því, og taka á sig innlent snid, svo hann gæti áunnid sem mest. Kom hann sér því inn hjá ætt nokkurri kínverskri, er „Schili" hét, og nefndi sig nafni hennar. Vestanvert vid Malakkaskaga liggur ey ein lítil, er Singapore heitir; þar hóf Gützlaff kristnibodid og býtti út biflíum og ödrum andlegum bókum. Þadan fór hann nordur á Siamsland; þad er skammt fyrir sunnan Kínaveldi, og eiga landsmenn mikil vidskipti vid Kínverja. Gützlaff fór þar vída um land og flutti Guds erindi djarflega, þó honum væri margt til tálmunar og margur háski búinn. Vard dvöl hans þar hin heillarikasta; því ádur hann fór þadan, var hann búinn ad útleggja nýa testamentid og flestar sögubækur hins gamla testamentis á túngu Siamsmanna.

Til þess ad búa útleggingu þessa undir prentun, fór Gützlaff sudur til Singapore og þadan aptur til Malakkaborgar. Þar fékk hann meyar þeirrar, er María Nevell hét, og var ættud frá Einglandi. Hún var gudhrædd kona og gáfud, og var áhugi hennar um eflingu Guds ríkis eingu minni, enn hans. Þvínæst fór hann aptur nordur á Siamsland og útlagdi þar ritnínguna á kambódsku og laostúngu. Var kona hans ámedan ad semja kokkinkínverska ordabók. En skammt leid um, ádur daudinn sleit þetta farsæla hjónaband, því 1831 dó kona Gützlaffs af barnsförum. Hafdi hún alid tvíbura, er dóu skömmu sídar. Þetta fékk mjög á Gützlaff; hann stód nú einmana í ókunnu landi, þar sem eínginn var honum til adstodar og rádaneytis, og eínginn, sem

bæri bøl hans með honum. Guðs orð var eina hugg- un hans í raunum þessum.

Nú þótti Gützlaff tími tilkominn, að byrja kristni- boðið á Kínlandi sjálfu. 1831 ritaði hann þar um á þessa leið: „nú er að því komið, að eg stigi aðal- skref æfi minnar; annaðhvort hlýtur Guð að veita árángur verki mínu, eða eg hlýt að láta líf mitt. Einhvern tíma mun koma að því, að Kínverjar hristi af herðum sér ok djöfulsins. Kærleiki Krists mun opna þeim dyr lífsins, og eingin myrkraveldi munu fá þeim lokað. Guðs fyrirheit bregðast ekki; þau munu og rætast á Kínverjum. Hjarta mínu er rótt, önd mín vonar og biður. Eg finn vanmætti mitt og almætti skapara míns.“

Með þessum hugrenningum sté Gützlaff á skip nokkurt, er fara átti til Kínlands. En svo mjøg hafði hann samið sig að háttum Kínverja, að, þegar hann kom þángað, varð á eingu séð, að hann væri út- lendur maður. Var það og meðfram vartarlagi hans og litarhætti að þakka. Gützlaff tók nú sem ákafast að boða Kínverjum trú, en jafnframt því var hann læknir þeirra, og varð kunnátta hans í læknisfræð- inni víða til að greiða gøtu trúarinnar. Makaó heitir ey nokkur á Kantonsfirði. 1831 ritaði Gütz- laff þaðan bréf til norðurálfu, og fer hann þar svo- feldum orðum: „nú er eg þá kominn híngað aptur heilu og høldnu; eg hefi margt orðið að þola, og verið í mørgum háska staddur; en nú get eg líka borið um, að það er eingin óvinnandi þraut að kristna Kín- verja. Eg hefi farið um fylki þau, er heita: Kanton, Fúkía, Schantúng og Petschely, og komið norður undir

varnarveggin mikla á landamærum Kínlands og Mongólaveldis. Hvar sem eg hefi kennt eda læknad, hefir mér verid vel tekid, og margir bádu mig, ad koma aptur ad ári, en eg hlýt ad fara þá leid, sem Drottinn minn og Lausnari vísar mér."

Þessar gódu vidtökur, sem Gützlaff fékk, komu því til leidar, ad verslunarfélagid indverska gjørdi út skip eingaungu til þess, ad fara ferdir á Kínaſtrandir. Gützlaff fór med skipi þessu, og átti bædi ad vera kristnibodari og túlkur; fékk hann þannig jafnadarlega færi á, ad tala trú fyrir Kínverjum og býta út bókum medal þeirra. Þó var hann ekki ánægdur med øllu, því hann vildi fyrir hvern mun geta komist leingra inn í landid. Um þessar mundir tók Gützlaff sótt, og lá leingi svo hætt, ad einginn ætladi honum líf. En er honum batnadi, lagdi hann jafnskjótt af stad til Pekingar, sem er høfudborg á Kínlandi; en komst í þad skipti ekki leingra enn til Teentsin; þad er kauptún allmikid. Gützlaff hitti þar marga kínverska menn, sem hann ádur hafdi kynnst vid. Honum heppnudust vel lækningar sínar, og dróg þad múga manns ad honum; eingum gat annad til hugar komid, enn ad hann væri madur innlendur, og tóku margir menn vid trú. Þegar vetra tók, snéri Gützlaff aptur, og sigldi til Makaóeyar. Þar var þá fyrir „doktor" Morrison, og fagnadi hann Gützlaff vel. Morrison var frægur madur og kristniboðari gódur, og var þá búinn ad boda trú á Kínlandi í 27 ár; eiga Kínverjar ágæta biflíuútleggíng eptir hann; hann dó 1834. Sídan hefir Gützlaff farid margar ferdir nordur um Kínaveldi, og gegnir þad furdu,

hversu ágeingt honum hefir ordid. Í hinum kínversku borgum lifdi Gützlaff saman vid menn af øllum stígum, rétt einsog hann væri landi þeirra, og þó allir hefdi beig af honum, var hann hvervetna vinsæll og velmetinn. Nafninu „Schili“ hefir hann allt af haldid. Gützlaff hefir þannig sært sønnur á, ad Kínland er ekki svo frástilid ødrum løndum, sem sagt hefir verid. Margir gódir trúbodendar hafa á seinni árum farid austur þángad, en eingum hefir ordid svo ágeingt, sem honum; Gud hefir veitt honum einum þá miklu yfirburdi, ad geta komid fram einsog innlendur madur. Þó Gützlaff aldrei léti af ad boda trú og býta út bókum, vann hann eigi ad sídur stødugt ad endurbót hinnar kínversku biflíuútleggíngar, og samdi kínverska ordabók; auk þessa hefir hann ritad fjølda fráfagna um Kínland og búa þess, og seinast þjódsøgu þeirra. Árid 1837 fór hann ad nýu nordur um landid; kynntist hann þá øllu betur, enn ádur, og sá nú gjørla ad kristna mátti Kínverja. 1839 ritadi hann bréf eitt frá Makaó, og segir hann þar: „eg hefi búist vid, ad eg mundi fá adstodarmenn frá norduráltu, en sú von hefir brugdist, því einginn hefir komid. Mér kom þá allt í einu til hugar, ad fræda innlenda menn, og taka þá mér til adstodar. Þennan ásetníng minn hefi eg borid á bænarvængjum fyrir hástól nádarinnar, og Drottinn hefir blessad hann og látid ad gódu koma.“ Medal þeirra, er tekid høfdu hinn nýa sid, voru margir lærdir menn og fródir á ýmsum aldri. Var nú ákvedid, ad hver þeirra skyldi fara til átthaga sinna, til ad boda þar

kristni, og hefir þessi adferd sídan verid adalstefnan í trúarbodi Gützlaffs.

Þó var þetta mædúár í mörgu fyrir Gützlaff vegna ófridar þess, er þá hófst milli Einglendínga og Kínverja. Gützlaff vard ad flýa af landi burt med allt sitt; en þó sá hann þegar, ad mikid gott mundi geta leidt af stridi þessu fyrir kristnibodid, því þad mundi verda til ad greida útlendum mönnum veg inn í landid. Hefir hann og getid þess, ad, medan stridid stód sem hæst (1841), hafi kristni aukist á Kínlandi. Þó vann stridid enn meira í haginn fyrir Gützlaff og málefni hans, enn hann hafdi hugsad, því Bretar feingu honum nú hvert embættid á fætur ödru þar eystra, og gjördi þad honum hægra fyrir í mörgu. Hann var milligaungumadur þjódanna bædi medan stridid stód og eptir ad fridur komst á, vard höfudsmadur í Ningpó og ædsti verslunarstjóri í Emoi, og hafdi mörg önnur vandastörf á hendi. Annriki hans jókst mjög vid þetta, sem nærri má geta, en hann hafdi svo frábært lag á ad láta alla embættisfærslu sína styrkja kristnibodid, ad því verdur ekki móti mælt, sem Nöttger nokkur, þjódverskur kristnibodari, hefir sagt um hann: „þó Gützlaff sé gjördur keisari yfir Kínverjum, verdur hann kristnibodari eigi ad sídur." Opt hefir Gützlaff verid túlkur á hernadar- og verslunarskipum Einglendínga, þeim er farid hafa fram med Kínaströndum; en þá hefir hann jafnan verid sálnhirdir skipverja á sjónum, og bodad Kínverjum kristni, þegar á land hefir komid. Hvert sem hann fer, skilur hann aldrei medöl sín né bókahirslur vid sig; alstadar leitar hann fyrst uppi sjúk-

línga og þurfamenn til ad færa þeim andlega og líkamlega heilsubót, og, hvar sem hann kemur, flykkist fjølmenni ad honum ad vørmu spori. Þegar hann er á sjóferdum á smábátum Kínverja, er hann ætíd formadur, kemur ad máli vid alla, sem hann hittir, og aflar sér hvervetna vina. Med øllu þessu ritar hann mergd bóka og tímarita, er fljúga út þúsundum saman. Í embættisfærslu er hann røggsamur, og lætur sér einkar annt um, ad hver nái rétti sínum. Á ári hverju fær hann mikid fé ad launum frá Einglandi, en því ver hann mestøllu til kristnibodsins. Svo er hann ástudlegur í vidmóti og vandadur í hegdan allri, ad hverjum, sem vid hann kynnist, verdur vel til hans, og einginn getur verid óvinur hans leingi. Nöttger, sem fyrr er nefndur, hefir sagt: beri svo vid, ad þýskur ferdamadur komi vid í ey þeirri, er Emoi heitir, þarf hann ekki ad furda sig á, þó hann heyri, ad verslunarstjóri Einglendinga sé ad bænagjørd med nokkrum Kínverjum, ellegar sé ad gefa sjúklíngum læknisdrykki, eda binda um kaun.“ Kristnibodsféløg Einglendinga og Vestmanna fallast ekki á þá adferd Kínlandsfélagsins, ad láta innlenda menn boda trúna; kemur þad af því, ad þeir hafa sama álit á Kínverjum og ødrum heidnum þjódum. Madur heitir G. Smith; hann er ættadur úr Bandafylkjum í vesturheimi og er frægur kristnibodari; hann hefir þad álit á Gützlaff, ad honum sýnist margt vera betra, enn þad í rauninni er; þó játar hann, ad Gützlaff sé einhver hinn merkasti madur med Kínverjum, og fáir séu færir um, ad koma ødrueins til leidar og hann hefir gjørt. Þegar

Gützlaff á tal við kínverska iðnaðarmenn og vinnufólk, hefir hann málfæri þeirra, látbragð og limaburð, og er það frábært, hversu hann getur aflað sér vináttu og álits hjá ollum. Ræður sínar flytur hann ýmist undir beru lopti, eða í hreysum inni, og mega þeir, sem áheyra, taka fram í, og spyrja hann, einsog þeir vilja."

29. dag ágústmánaðar 1842 varð atburður sá, er jafnan mun verða í minnum hafður. Fulltrúar tveggja hinna fjölbygðustu heimsríkja áttu þá fund með sér á lángskipi því, er Kornvallis hét, og var þar ritað undir samning þann, er skuldbatt Kínverja til að veita oðrum þjóðum jafnrétti við sig upp frá því. Þannig var hleypidómi hafnað, er drottnað hafði um þúsundir ára. Gützlaff var þar viðstaddur, og ræddust þeir Kijing leingi við. Kijing var æðsti fulltrúi Kínverja og hafði ábyrgð alla í þessu máli. Gützlaff var glaðari, enn frá megi segja, því við slíkum málalokum hafði hann valla búizt. Sjálfur friðurinn var saminn í Nanking; það er onnur borg mest á Kínlandi. Oðar enn samningum var lokið, kom Gützlaff með biflíu í hondum, og hóf hátt og skorugliga kenningu sína um náð Guðs í Jesú Kristi. Meðal áheyrenda hans voru nokkrir af valdsmannaflokki (Mandarínum), sem mest allra stétta er mótfallinn kristinni trú. Eptir þessa atburði fór hann aptur til Ningpóar, því Einglendingar hofðu feingið honum í hendur logstjórn alla þar í borginni. Stofnaði hann nú skóla og sendi trúboðendur um allt land, og efldi þannig í ollu, sem mest hann mátti, tímanlegar og eilífar heillir landsbúa.

Gützlaff hefir sagt á einum stad í ritum sínum, þar sem hann minnist á stríðið milli Englendinga og Kínverja, ad Englendingum væri ætlad hid sama nú á dogum, sem fordum daga Rómverjum, er ósjálfrádt voru verkfæri í hendi Guds til ad greida veg kristinni trú. „Þad er furdanlegt, segir hann, ad komum útlendra manna fjolgar ódum á Kínlandi, þó med ollu móti sé reynt, ad sporna vid þeim.“ En eptir ad fridurinn komst á, segir hann, ad allt hafi breytst svo til batnadar, ad undrum gegni. „Sídan sættir voru samdar, er einsog Kínverjar og keisari þeirra séu ordnir adrir menn. Nú er útlendingum heimilt, ad koma í hverja borg á Kínlandi, og einkis ferdum er aptrad af stjórnarinnar hálfu. Mikill atburdur er ordinn á vorum dogum, og væri maklegt, ad hann stædi med stóru letri í sogu heimsvidburdanna.“ Því sem Gützlaff hér segir, ber saman vid skýrslur þær, er adrir hafa ritad um þetta efni. Þó má nærri geta, ad erfitt muni vera, ad útrýma rótgrónum hleypidómi alþýdu og ýmugust á útlendum monnum, og er vid því ad búast, ad kristnibodid eigi enn þá mikla baráttu fyrir hendi. Lagabod þau, sem bonnudu Kínverjum ad taka kristni, er þó búid ad kalla aptur; er þad einkum ad þakka kappsmunum hinna frakknesku sendiherra, og breytingum þeim, sem fridurinn vid Englendinga kom á. Kijing stjórnarherra hefir sjálfur ritad keisara og bedid hann fyrir hina kristnu í ríki hans. Segir hann um þá, „ad trú þeirra kenni rádvendni og dygd, en hafni lostum og illri breytni.“ Á jóladaginn 1845 var Gützlaff send tilskipun keisara, er leyfdi, at kristna trú

mætti boða í öllu ríkinu, og hét almennu trúarfrelsi. Eingin jólagjöf gat verið Gützlaff kærari enn þessi. Þannig veitti Guð blessun sína málefni því, er þjónn hans hafði svo leingi unnið og beðið, stríðt og liðið fyrir.

Uppskeran er mikil, en verkamennirnir fáir; biðjum því eiganda uppskerunnar, að hann sendi verkamenn til uppskeru sinnar.

Já, uppskeran er mikil! Á Kínlandi búa undir 360 milliónir manna, eða hérumbil þriðjúngur mannkynsins. Þar er tilfinningarleysi um allt heilagt og háleytt samfara heimskulegustu hjátru; þar er námfýsi mikil, og menntun lángt á veg komin, en siðaspilling fram úr lagi; þar er ritað og prentað, og vísindi öll höfð í hávegum, en þjóðin lýtur vesælum goðum, og lifir í óstjórnlegum munaði. Kínverjar bera þess ljósan vott, hversu ónóg spakmæli ein og siðareglur eru, til að halda við sönnu siðgæði, því þó ekki sé þessa vant í kenníngu Konfúsíusar, sem flestir fylgja, eru veldi myrkranna svo rík með Kínverjum, að milliónir meybarna eru á ári hverja tekin af lífi, að lögunum er traðkað, og trúarbrögðin virt að vettugi. Við þessu má ekkert, nema sá kraptur Guðs til sáluhjálpar, sem hann hefir boðað, er kom að leita hins glataða. Andi kristinnar trúar verður að gagntaka hjörtu þjóðarinnar, svo hún byrji nýtt líf; og mundi það verða öllum austurheimi til ævarandi heilla og blessunar.

Fyrir 1200 árum fóru kristnir trúboðendur úr Mesópótamíu austur á Kínland og bygðu þar kirkjur ekki allfáar; en þess sér nú hartnær eingar menjar.

Síðan var eingin tilraun gjørð, fyrr enn fyrir 300 árum, að rómversska kirkjan sendi þángað erindsreka sína. Kristmúnkar (Jesúítar) tveir, Franz Xaver og Ricci, geingu best fram og snéru mørgum til páfatrúar, en þeir flekkuðu sannleikann með kænsku sinni, því þeir leyfðu þeim, sem við kristni tóku, að halda margskonar heiðinni háttsemi; varð þeim svo framgeingt með þessu, að við sjálft lá, að keisarinn sjálfur yrði einn þessara hálfkristnu manna. En á stjórnardøgum hinna næstu keisara eptir hann, hófust grimmar ofsóknir bæði gegn trúboðendum og innlendum mønnum, er tekið høfðu hinn nýa sið. Sýndu margir þeirra hugprýði mikla og staðfestu. Þegar Gützlaff kom austur, voru þar hérumbil 200,000, er við páfatrú høfðu tekið. Þó hefir hin „evangeliska“ kirkja á seinni tímum gjørt mest að því, að kristna Kínverja. Árið 1806 sendi kristniboðsfélagið enska austur þángað Hróbjart Morríson, sem áður er nefndur; en leingi þorði hann ekki að ráðast í neitt, nema að rita bækur, og reyndi hann með þeim, að breiða út þekkíngu á kristinni trú bæði í Kantonsborg og á Makaóey. Þó var tortryggni kínverskra embættismanna og ofund Portúgalsmanna honum jafnan til fyrirstøðu í þessu. Þess er áður getið, að Morríson hafi snúið ritníngunni á kínverska túngu, en auk þess er til eptir hann kínversk orðabók í 6 bindum, og ber það vott um óþreytanlega iðni hans og atorku. Þvínæst tók kristniboðsfélagið og skírendasøfnuðurinn í Bandafylkjum að senda austur, og hafa þeir Milne, Medhúrst, Bridgman, Parker og fleiri sýnt þess føgur dæmi, hverju trúin og kærleikurinn fá orkað. Þó standa þeir allir

lángt á baki Gützlaffs, og kannast þeir sjálfir við það. Gützlaff er frumkvöðull þess, að stofnað var **Kínlandsfélagið í Hongkong**. Sendir það innlenda menn um allt ríkið til að boða trú og breiða út bækur. Kínverjar eru bókavinir miklir, og þó mállýskur greini mjög í landinu, skilja allir bókmálið og lesa allt, sem þeir komast höndum undir. Þessa bókfýsi þeirra lætur félagið sér að gagni koma, og gefur út fjölda smárita, til að fræða landsmenn á sannindum kristinnar trúar.

Félag þetta skorar nú á allar þjóðir norðurálfunnar, að styrkja kristniboðið á Kínlandi með fyrirbænum, sendimönnum og fégjöfum; því auðsjáanlegt er, að mikið muni kosta, að gjöra út svo marga menn og prenta slíkan bókafjölda. Þessu hefir verið vel tekið ekki einúngis á Einglandi og í Bandafylkjum, — þar sem öllum fögrum fyrirtækjum er jafnan liðsinni víst, — heldur víðasthvar annarstaðar. Á Þjóðverjalandi hefir miklu verið safnað; stendur fyrir því félag eitt í Kassel, og gefur það út einusinni í hverjum mánuði skýrslu um allt, er Kínland snertir. Norðmenn og Svíar hafa gefið töluvert, og er sinn maður frá hvorjum kominn austur í Hongkong. Heitir sá Schreuder, er Norðmenn sendu, en Hamberg hinn. Danir hafa ekki heldur látið sitt eptirliggja, þó þeir hafi þurft miklu til að kosta 3 næstliðin ár. Vér Íslendingar ættum því ekki að leiða mál þetta fram hjá oss, heldur gjöra vort til, að ljósið Krists náðarorða fái skinið sem skærast á hinu fjarlæga landi. Veraldleg íþrótt hefir opnað veginn þángað; ættu börn ríkisins þá ekki að gefa gaum táknum tímanna? Verum það ekki fyrir, að vér séum fáir og fáum

litlu orkad; en minnumst fyrirheita Drottins: „eg mun gjøra fjoll mín øll ad vegum, og brautir mínar skulu hækka; sjá! nokkrir munu koma lángt ad; sumir ad nordan og ad vestan, sumir frá landi Sinverja." (Es. 49, 11—12.) Ad því, er mannlegt hyggjuvit getur fyrirséd, lýtur allt ad því, ad fyrirheit þetta muni brádum rætast. Þegar G. Smith, sem fyrr er getid, kom heim frá Kínlandi, flutti hann rædu á ársfundi hins enska biblíufélags, og komst hann þar svo ad ordi: „þad er audrádid af øllu, ad miklar breytíngar muni innan skamms verda á Kínlandi; keisaratigninni er fall búid; vantrú og efasemi hefir gagntekid hjørtun, og þjódgodin eru fyrirlitin; komist kristin trú í álit hjá hinum lærdu mønnum og spekíngunum á Kínlandi, er henni þar sigurinn viss; því Kínverjar bera frábæra lotníngu fyrir yfirmønnum og fylgja fræđurum sínum í øllu." Hugur vor hvarflar ósjálfrádt til Rómaveldis hins forna, einsog þar var ástatt, þá er fagnadbodskapur Krists hljómandi fyrst í heiminum; „þared heimurinn vegna vitsku sinnar ekki þekkti Gud í vitsku hans, þóknadist Gudi, fyrir hina fávíslegu kenníngu ad gjøra þá hólpna, sem trúdu". (1 Kor. 1, 21). Hver er sá, er eigi stydji ad því fúslega, ad Kristur, kraptur Guds og speki Guds, megi bodadur verda bædi í nánd og í fjarska!

Ad endíngu getum vér þess, ad í Danmørku hafa 8 prestar tekid sig saman um, ad safna gjøfum til kristnibodsins á Kínlandi. Einn þeirra er forstodumadur brædrasafnadarins í Kaupmannahøfn, herra Mathiesen, og hefir hann lofad, ad veita því mótløku, er frá Íslandi kynni ad koma.

---

☞ Evangelisk Smárit, frá byrjun Nr. 69, eru ad fá í Reykjavík, í Flatey á Breidafirdi, á Eyafirdi og á Reidarfirdi gefins þeim, sem taka þar vid þeim sjálfir, en þeir sem þurfa ad senda þau edur flytja, meiga taka 1 ß., undir 1 ark, hjá þeim, sem þeir færa þau, ef vilja.

Kaupmannahøfn 1851. Prentad hjá S. L. Møller.